# Minníng

# Sigrídar Magnúsdóttur Stephensen

skrásett

af hennar Fødur

**Magnúsi Stephensen**

Konúnglegrar Hátignar Jústitsrádi og Jústitiario í þeim konúnglega íslendska Lands-Yfirretti.



Leirárgørdum vid Leirá, 1805.
Prentud á kostnad Høfundsins,
af Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

Sigríđur Magnúsdóttir Stephensen var mér fædd og géfin þann 28da Októbr. 1789, ad Leirá í Borgarfirdi. Rétt um sømu mundir medtók eg frá ný-innkomnu Póst-skipi þad haust, mér þá, sem efna- og brauđ-litlum manni fyrir Vice-lögmanns embættid eitt, er eg þá hafdi á hendi, einka kjærkomid Kóngs-bréf, útgéfid þann 19da Augúst sama ár, uppa mér veitt virkilegt Lögmanns-embætti nordan og vestan á Íslandi, svo mín gledi um þær mundir vard tvøfóld, yfir velskopudu barni, og jafnframt braudi

 med

med barni. Lángtum svida=minna hygg eg þó mér hefdi nú fundist, þó sá sami 19di dagur Augústi í ár, sem fyrir 16 árum gaf mér fyrst stødugt virkilegt embætti med launum hér á landi, hefdi aptur svipt mig, án afbrota, launum og embætti, heldur enn fyrrnefndri Dóttur, sem eg í ár misti á sama, mér merkilega dag, þann 19da Augústi.

Hvad eg þá af ánægju og von misti, sómir mér þó ecki ad útmála hér, eda þær sønnu saknadar tilfinningar ockar Foreldra hennar, né alla hennar ockur saknadarverdu eginlegleika, þar eg má vidbúast, ad minn vitnisburdur, sem Fødurs, verdi tortryggdur, auk þess, ad mér ásamt er skyldt ad prísa rádstøfun Guds, og samfagna minni Sálugu med farsælann harma=léttir. Eg skal því hér vitna sem færst, en beidast þó vork-

vorkunsemdar, þó eg, mér og vinum minnar Sálugu til skémtunar, og henni til verdskuldadrar Minningar, drepi á fátt eitt þad, hennar stuttu Æfi snertandi, sem eg hikklaust má vona stadfest af hvorjum ópartiskum og sannordum, sem til sálugu Sigrídar þeckti. Hún var ad sýnum og skapnadi fríd, nett í vexti og lima-burdi, uns sjúkdómur sídarst aflagadi vaxtar-lagid. Hana mátti heilsu-góda telja hennar fyrstu 10 ár, og þessvegna, med ødrum hennar eginlegleikum, med efnilegri stúlkum; en — um veturinn 1799—1800 lagdist hún í megnum sióuverki og þar af leidandi lángri sótt, í hvorri fyrst vard vart vid, ad hægri sídan og bríngsbalir sama megin tóku ad géfa sig nockud út; þar hún sídan vid hlaup eda mikla hræríngu tók ad finna til mædi og stíngs, hmist í þessari sídu eda brjósti, og lækn-

is.

is-tilraunir hér í landi, ecki megnudu þetta ad lagfæra, leitadi eg henni hjálpar-medala hjá nafnfrægum Læknurum í Kaupmannahøfn, sem, af sjúkdómsins lýsíngu, dæmdu, ad ofvøxtur edur bólga væri í lifrinni, en ítrekadar tilraunir med lækníngar, eptir þeirra fyrisøgn, konu þó ecki ad haldi; því sáluga Sigrídur lagdist á ný í vidlíkri sótt hér á Innrahólmi um veturinn 1803, eptir hvørja brjóstid og sídan beygdist enn meir út enn fyrri, vøxtur líkamans tók ecki edlilegum framførum, næríng mínkadi og med henni hold og þrif, blódfegurd í andliti dofnadi, hósta kjøltur á stundum efpadi jafnadarlegar verkja- og stíngs-þjáníngar fyrir brjósti og sídu; hreifíngar urdu ecki þolanlegar, nema med hægd, og þó hellst inni, eda í blídvidri úti. Þegar Hra. Land-Physikus Thómas Klog

var

var fyrir skømmu híngad á land til embættis kominn árid 1804, gjørdi hann allar bestu og møguleguftu tilraunir, ad fá þessa mér hjartkjæru Dóttur læknada, hvørs vegna þau ágætu hjón, Hra. Assessor Benedict Grøndal og hans góda Frú Puridur Olafsdóttir Grøndal, veittu ockur Konu minni og ockar nú sálugu Sigrídi þá minnisverdu, miklu velgjord, ad taka hana af ockur um tíma seint á árinu 1804, til adhjúkrunar hjá sér ad Nesi, svo sem á þann hentugasta stad fyrir Hra. Land-Physikum, daglega ad géta sjed, hvørja verkun og sjúkdóms umbreytíngar brúkun þeirra medala, hann fyrirskrifadi henni, af sér leiddi, og eptir því hagad, valid og reynt allt, sem í hans valdi stód, hvørja Hra. Land-Physici náqvæmu vidleitni vid Foreldrar sálugu Sigrídar, eins og hún sjálf ættid, med

þack-

þacklæti vidurkénnum, enn þótt í hans eda manna valdi hér ecki stædi, ad lækna svo vandrædasamann og líklega ólæknandi gamlann innvortis sjúkdóm, sem þessi Læknir, eins og hinir, dæmdi ad vera Lifrar-bólgu. — En alla þá meir enn foreldralegu náqvæmni og umhyggju, sem háttnefnd gódu hjón í Nesi audsýndu ockar Sigrídi þar í hennar sjúkdóms ástandi, gat hún ecki svo þacklátlega útmálad, sem hún vildi og qvadst finna skyldu til, en til hennar sídarsta andartaks vóru hjartanlegar þacklætis tilfinníngar til þeirra hjá henni lifandi, eins og þær ættu ad lifa hjá ockur Foreldrum hennar, medan þessi ockur annars ógleymanlega Sigrídur ecki gleymist øll. Loksins tók veikleikinn yfirhønd nærstlidid sumar; mædin vóx, brjóstid og sídan spenntist enn meir út, bakid bognadi, hreifíngar mink-

mífkudu, þó klæddist hún ætíd og dróst um húsin og út í sérlega gódu vedri, verkir um bádar sídur og bak, mjadmarhøfud og brjóst á víxl urdu fastari, opt megnari, matleysi jókst, og þanninn lángþjáda og veikta undir, yfirféll hana loksins sú strída landfars- og qvef-sótt, er á nærstlidnu sumri géck vída um landid, og kippti burt mørgu eptirsjýnda-verdu fólki á øllum aldri. Þó klæddist mín sáluga S i g r í d u r flestalla daga, og eins daginn fyrir sitt andlát lét hún Módur sína klæda sig, og bera ofan til mín af svefn-herbergi sínu á lopti, en skommu eptir í rúmid aptur, vel og lengi vidbúin ad skiljast hér vid, væntandi þess ánægd og von=glød á hvørjum degi, um hvad hún optlega taladi vid sína elskulegu Módur, sem henni var jafn-kjærust allra í lífinu, svo sem sú, er lengst og ótraudast hafdi med

henni mædst í hennar lánga sjúkdómi, og moðurlega aðhjúkrað seint og snemma. Degi síðar, nefnilega: þann 19da Augústi næstliðna, vyrdtist hún um morguninn hressari, en — hana sókti megnt svefn-mók, í hvörju hún, um dagmálabilið, burtu leið, sem ljós, og afhendti sína af heiminum lítið fleckaða sálu í hönd þess ljósanna föðurs, er hana géfið hafdi. Þann 25ta Augústi þ. á. var hennar andvana lík lagt til hvíldar í Innrahólms Kirkju-garð. **Guð gaf og Guð burt-tók, Guð veri lofaður!**

Það er að sönnu víst, að foreldrar, hvörjum annars er kjært til barna sinna, mega meðfram gledjast yfir svo lángþjáðrar Dóttur lausn frá enn lengri, og, eptir öllum tilraunum, ólæknanlegri sjúkdóms mæðu, samt blandar náttúran

sinni

finni saknadar tilfinníngu í þenna gledi-blandada bikar, því framar, sem sá misti ástvinur hafdi fleiri góda og ánægju-sama eginlegleika til ad bera. Á nockra þeirra vil eg nú med fám ordum rétt og skrumlaust minnast.

Sáluga **Sigrídur** hafdi af Gudi ødlast **Náms-gáfur til munns og handa í betra lagi.** Næmi rétt gott, skilníng og greind med þeim bestu. Til bókmenta og hand-ydna var hún jafn-lagin og fús, þegar sjúkdómur ecki deyfdi þær tilraunir. Eptir aldri og á-sigkomulagi hafdi hún í hvorjutveggja og ýmsum menta-greinum, þann grund-voll lagt, sem henni med betri heilsu, og vid lengri lífdaga, mátti æ koma ad haldi og sóma í sinni stétt. Hún var hneigd fyrir bóklestur, jafnt í dønsku og módur-máli; reiknadi sæmilega; skrif-

adi allgóda qvennhønd. Var einkum gésin fyrir Náttúru-søgunnar lærdómum, og gjørdi, vid þeirra lestur, Frædurum sínum þær spurníngar med greindar- og íminndunar-fullu egin umdæmi vid allmargt, sem sjaldgjæft er nema hjá skarpvitrum og velmentudum fullordnum ad finna. Heimsins dýrdlega og vísdómsfulla byggíng og niðurradan, þeir mørgu himinhnettir og þær líklega eins mørgu veraldir, og Guds áqvardan med manninn, vóru eptir hennar íminndun gledi- og furdu-full umtals efni, sem eldri jafnvel upplýstir menn, høfdu ánægju af ad ega hlutdeild í. Vid Confirmation sína á Páskadaginn 1804 gaf hún fjølmennum Søfnudi í Innraholms kirkju, ein þá ýtarlega yfirheyrd alla þá nýju Lærdóms-bók Trúarbragdanna ígégn, enn þótt lasin, fágæf rok uppá grundvalladann skilníng á hennar aldri.

Að Lunderni var hún góð og gjæf og til flestra undrunar gjætin, stillt, stöðug, sidlát, hlýðin og eptirlát; ætíð lastvør, frásneydd sérhvørri, jafnvel minnstu, óráðvendni til orða eða verka, áminnti hún bæði ýngri og eldri skoruglega um sérhvað, er til skyldu-ræktar og góðra siða horfa mátti. Góðhjørtuð við fátæka og alla nauðlíðandi eður bágstadda á einhvørn hátt, lagði hún fús fram þeim til góðs það litla er hún megnaði, bestu tilløgur um allt; hún var ørlát af því litla hún átti, en ecki þar fyrir hneigð til eyðslusemi; til allrar yðju er hún þoldi, fús og kappfull, sem yðinn fullorðinn. Þrifnað, reglu og góða umhyrðíngu, með allt, elskaði hún mjøg og ámálgaði það, sem þartil horfa mátti, eins og hún var af náttúru sjeð að hagnýta allt, sem best, og ráðgóð, sem gamal-reynd væri. Fáskiptin, innfalla-nett, ætíð góð-glød og gamansøm með stillíngu, þegar þjáníngar ecki bægðu henni frá gamni og jafnvel miðt í þeim, allt fram í dauð-

í daudann, nær sem af henni brádi, ávaun hennar skírleiksfulla, meinlausa og þægilega umgengni henni ást og velunnan allra, en, þó hún hvorki ætti né verdskuldadi ad ega nockurn óvin, átti hún þó ecki nema fáa sérlega vini, en med þeim héldt hún sífeldt svo í hønd í ordi og verki med furdanlegri trygd og alúd, svo sjúk, sem heilbrygd allt til síns sídasta æfi-dags, ad færri fullordnum mun betur fara. J einu tel eg þó hennar yfirburdi yfir flesta ýngri og eldri sérlegasta, nefnilega í þolinmædi. J 6 ár hafdi hún af og til, og seinustu árin jafnadarlega nótt og dag, sárlega kramist og þjakast af þeim stórkostlegu innvortis meinsemdum, sem loksins endudu hennar flecklitlu æfi, lengi, því nær í heilt ár, þoldi hún ecki ad hvílast í rúminu, eda út af ad leggjast, ecki ad hallast á bak eda sídur, heldur sat uppi vid herdadýnur og blundadi þanninn stund og stund í einu, og þá verkirnir gjørdu þá dúra stutta, marga, og ónædissama, dott-

adi

adi hún þar fram á höndur sínar, qveinadi alldrei, nema þegar ecki þoldi lengur af sér ad bera, og þó ætíd med sérlegri hægd og stillíngu; aldrei lét hún eitt styggdar-eda óþolinmædis-ord í sínum lánga sjúkdómi heyrast, hvorki um hann eda adhlynníngu sína, aldrei neinar hégóma- og heimskulegar óskir, aldrei minnstu vonleysu eda örvæntíngu um bata, eda umqvörtun yfir sínum bága eymdarhagi, heldur, undir eins og af henni brádi, gladdi alla nálæga, med því þá ad gjöra sér allt til gamans. Í stuttu máli: hún var á 16da aldurs ári í flestu svo sett og fullordinsleg, svo sidsom og gjæfuvænleg, ef heilsa og lengra líf hefdi mátt henni veitast, sem annars sjaldnar mun ad finna, nema hjá gódum og gomlum fullordnum. En, eg má óttast ad þessi lýsíng sálugu Sigrídar frá mér, sem Fodur, verdi tortryggd, og vil því tafarlaust hætta hér vid án frekara umtals, med því ad vitna til allra sannordra, er hana þecktu, hvört nockr-

nockud sé hér ýkt eda ofhermt, og med því til lykta ad heidra minnar sálugu Minníngu enn framar, med vidbætir trúverdugra vitnisburda frá tveimur almennt vyrdtum, merkilegum Embættismonnum, sem bádir þecktu grant mína framlidnu og eru ad skrumleysi alþecktir. Sá fyrri er Ræda, haldin vid Líkkistu sálugu Sigrídar strax á undan hennar jardarfør þann 25ta Augústi 1805, af hennar Kénnifødur, Prestinum Hra. Hallgrími Jónssyni; hinn sídari Grafskrift, þá undir eins sett minni Sálugu, af Herra Assessóre í þeim konúnglega íslendska Lands-Yfirrétti Benedict Grøndal. Bádir, og almennur ordstír, skulu lengi stadfesta framanskrifada Sigrídar Magnúsdóttur Minníngu.

Innrahólmi á Akranesi,
þann 15da Nóvembr. 1805.

M. Stephensen.



# I. Ræda

haldin vid Lík-kistu

# Fröken Sigrídar Magnússdóttur Stephensen

á undan hennar úthafningu

þann 25ta Augúsli 1805.

Hann var snemma algjørdur og fyllti mørg ár. Þessi var sá dýrdlegi vitnisburdur, sem hinn Visi í sinnar bókar 4 kap. gèfur þeim gudrækna og rèttláta, sem úngur dó, og eptir Guds vísdómsfullu rádstøfun, var fyrr fluttur til annars fullkomnara og farsælla heims, heldur enn hann var ordinn gamall. Sá Visi segir þann únga gudrækna, verid hafa snemma algjørdann, hann hafi, nefnilega, skjótum framførum tekid í upplýsíngu, dygd og rádvendni, í upphæckun sinna náttúr-

 legit

legu sálar-krapta, í öllu því, sem Pêna átti og mátti til ad fylla þá áqværdun, hvar fyrir hann af Gudi í heiminn settur var, nefnilega: til ad efla hans dýrd, egin og annara sonnu velferd, í því standi hann var, og eptir þeim ástædum honum untar vóru. Í þessu og þvílíku, vex med varandi aldri og vitsmunum hvørr einn sá, sem alhuga stundun áleggur, ad upplýsa sinn skilning um allt þad, sem vita og gjøra þarf, til ad ná þeirri sönnu farsæld, bædi í tímanum og eilífdinni, og ad helga og betra sinn vilja, ad hann einúngis elski dygd og rádvendni, en hati þad mótsetta, já! einkum stundi sanna gudrækni, sem þá, er hafi fyrirheit um gjædi þessa og hins ókomna lífs. Engin ástundan er þeim únga gudrækna svo kjær sem sú, ad ná sem mestri fullkomnun í öllu því, sem kunni vidfrægja vegsemd hans Skapara, prýda hans kristid nafn, og lýsa Jesú, hans sáluhjálpara heilaga lærdóms og lífernis hjálpsamlegu verkunum í og hjá honum, og med þvílíkri kostgjæfni, verdur hann fljótt algjørdur, þad er ad segja: svo fullkominn, sem hvørjum

ein-

einum er hér unnt ad ná, eptir þeim efnum og ástædum, honum af forsjón hins Alvísa þartil léutir eru. Í þessu tilliti kann sá gudrækni, dygda og mannkosta trúi stundari skjótt algjørdur heita, og þess vegna sann-nefndur svo af hinum Vísa, sem einnig tjáir hann fyllt hafa mørg ár, ecki ad því leiti, ad hann fái mørg aldurs ár talid, heldur svo, ad á þeim fáu árum hann lifdi, hafi hann safnad sér stórum féssjód vitsku, gudræknis og gódra dygda, lángt framyfir hinn, sem kunni ad telja eins mørg, máské fleiri ár, heldur enn hann, en vantadi þó allt á vid hann. Enga gledi finnur sá gudrækni, sem snemma venur sig á þad ad læra, og taka framførum í upplýsingu og dygd, jafnvæga þeirri, ad ná sem mestri fullkomnun í þeim semu. Hvada gledi finnur hann ecki af því, ad upplýsast æ betur og betur um Guds stóru dásemda, og miskunnarverk, í nádarinnar og náttúrunnar ríkjum? ad sjá þar smámsaman ljós, hvar hann ecki ádur sá nema dymmu? af því, ad upplífgast enn fremur af elsku til þess Guds, sem sjálfur er

 sá

sá allra besti og fullkomnasti, hvörjum hann af alvöru ástundar ad líkjast, í öllum þeim full-komlegleikum, sem samqvæmir eru mannedli hans, þared hann vid framför í hvörjum einum af þeim, finnur nýja farsældar aukníngu; sín úngu ár helgar hann því þessari happa-sælu upplýsíngu og mannkosta ydju, og þar vid verdur hann fljótt **algjördur**, þad er: nær þeirri fullkomlegleikans tröppu, sem honum er hér audid ad ná, og hefir því miklu betur brúkad sín fáu ár, heldur enn hinn, sem gleymdi ad vaxa í upplýsíngu og dygdum, og gaf sig gálaus heimsins og holdsins hættulegu ginn-íngum, til hindrunarlausrar þjónustu, og vard þó miklu eldri. Þegar sá úngi gudrækni hefir nú svo fljótt vaxid hér, til sinnar fullkomnunar, þó hann enn þá sé á blómi æfi sinnar, og á únga aldri, þykir máské þeim alvísa, góda Gudi, sem aleinn rædur fyrir kostum og kjör-um mannsképna sinna, þeim til besta, mál kom-id ad færa þenna sinn elskada gudrækna frá þessu lífi, til eins fullkomnara og farsælla lífs, til ad fylla þar þá ákvördun, hann honum

ætlad

ætlad hefir, og framhalda þar þeirri fullkomn-
un, til hvørrar hann á fáum árum hér, hafdi
lagt svo gódann grundvøll, um alla ókomna ei-
lífd, sem hann þá finnur sinni fullkomnunar
og farsældar aukníngu áqvardada. Elskulegu
úngu! uppoffrid øllum ydar sálar og líkama
kreptum, þeirri farsæln kostgæfni, ad vaxa í
vitsku og dygdum, og í því, æ betur og betur
ad rækja ydar skyldur vid Gud, ydur og ydar
medmenn, og litid á þau føgru laun, sem því-
líkri kostgæfni eru tilbúin af Gudi, vorum besta
fødur á himnum, sem elskar og launar þad
góda, og þessi laun fáid þér þegar fundid í
rósælli medvitund gudræknis og gódra dygda
trúrrar æfingar, og sídar fullkomlegar finna
skulud, þegar þér innleiddir verdid í sælu og
dýrd, hjá sáluhjálpara ydar Jesú Kristi; þá
kémur þad ad gagni og gódum notum, ad hafa
snemma byrjad ad stunda eptir fullkomlegleika
í øllu gódu, og hafa géfid þau úngu árin, æf-
innar blóm og æskunnar fjør, til ad fylgja fót-
sporum frelsara síns, Jesu, í allskyns dygda
og skyldu-rækt, sem fljótt algjørdur fyllti mørg
ár,

ár, já! fullkomnadi sína áqvørdun á jørdu á rúmum 33 árum. Stundid ad breyta eptir Jesú Kristi í því, ad leggja allt kapp á, ad verda fljótt algjørdir, máské þér hafid þegar gjørt góda byrjun á því, og viljid þeirri sømu framhalda til frekustu fullkomnunar, ad um ydur heita megi med sønnu: fljótt verdid þér algjørdir, fljótt erud þér fullordnir ad vitsmunum og mannkostum, eptir ydur útdeildri mælíngu, þó úngir séud ad aldri, svo ad ydar sálir þóknist Gudi, eins og hinn Vísi adqvedur, strax eptir áminnst inngángs ord, og Gud þessvegna, þá honum best sýnist, flytji ydur burt frá þessu lífi, hvar ýmislegt mótlæti, Adams barna sameginlegt lód, fljótt og óvænt kann mæta ydur, til eins ótalsinnum fullkomnara og farsælla lífs.

Þannig hefir sá algódi Fadirinn nýlega gjørt, vid sitt heitt-elskada og blessada barn, sálugu Frøken Sigrídi, eptir ad hún hafdi hardtnær 16 ár, fyllt áqvørdun sína í þessu lífi, tekid, med vaxandi aldri og vitsmunum,

fljót-

fljótum framförum í upplýsíngu, gudrækni og mannkostum, ordid snemma algjör, og fyllt ad því leiti mörg ár, lært allt, sem þénadi, til ad verda fullkomnasta og besta manneskja í sínu standi, sýnt sínum jafnoldrum og líka sér eldri, sauna adferd í því, ad verda brádlega algjör í öllu gódu, lidid sárt heilsu-veikis mótlæti, mikinn part æfi sinnar, þeim mun tilfinnanlegra, sem þad var í hennar blómi, þá manneskjum þykir gjarna vænst um lífid, og þad med svo stakri þolinmædi, ad torveldt mun þeim eldri eptir ad breyta, med svo innilegri undirgefni, undir Guds födurs góda vilja, ad hún bar ljóst vitni um, ad hennar heita og hreina elska til hans, giördi henni þá mædu létta; hún lét sér ætíd fyrir sjónum vaka, þau fögru laun, sem farsæl eilífd nú þegar farin er ad greida henni, þared hennar dýrmæta sála, fullkomlega fríud frá öllu heims hryggda böli, öllum óþægilegum og ógédfeldum tilfinníngum, gledur sig nú af skodun Guds miklu og mörgu dásemdar-verka, og inidar fljótt áfram af einni fullkomlegleikans tröppu á adra, í þeckíngu

þeirra sömu. Hvad margt og mikid gledilegt fær hún nú ecki þegar bædi ad heyra og sjá, í sáluhólpinna sælu samastad? hvar ný og ný undur Guds stóru verka, fylla sálu hennar þeirri gledi, sem enginn af oss fær nú nógslega skilid, og sameiníngin vid Gud, þann ædsta góda, eykur hennar sælu, já, meiri og meiri fullkomlegleikans aukníngar, og af honum fljótandi meiri og meiri farsældar, hefir hún þaradauki ad vænta um alla tilkomandi eilífd. Þessi eru nú launin þessarar dýrmætu sálu fyrir þad, ad hún, í sannri hlýdni vid sinn Gud, lærdi og lifdi, sem honum líkadi, var snemma algjør, fyllti mørg ár, ávann sér hans velþóknun med sinni gudrækni, ávann ástþylli sinna dygdaríkustu Foreldra, med viljafullri kostgjæfni, ad læra þad allt og æfa, er þeir vildu hana, sér til sælu og sóma, læra og æfa láta, ávann gédþeckni og vyrdíngu allra, sem umgengni med henni høfdu, sáu og adgjættu hennar hrósverdu mannkosti, hennar mørgu og miklu gáfur og gódu eginlegleika; eg vil einkum géta þriggja, sem eg, af egin

reynslu

reynslu, hefi lagt merki til, ad hún var med gjædd: Skarpleika, Sidlætis og styrks i Idnunum. Hún eptirlét svo gott dæmi, svo fagurt mannord, á sínum stad, ad þad má vera Ydur, elskanlegu úngu! eptirbreytnisverd fyrirmynd, ad stunda ad ná þvílíku, gjørid svo vel, ègin velferdar vegna, stundid eptir því; þeim sannleika verdur ecki neitad, ad lifandi dæmi verka steckt á manneskjum, látid því þetta fagra dygda-dæmi verka þad tilætlada góda hjá Ydur, sem þeim, er hafid þá sønnu sóma-tilfinníngu, og munu Ydur bædi notin og launin viss.

Þeir dygdaríkustu Foreldrar, gèfa nú aptur þetta sitt blessada barn, þeirra og þess gódgjarnasta Skapara, upplýst og mentad, til ad fá og ná inntøku í sáluhólpinna sælu sama-stad, gladir af þeirri rósømu medvitund, ad hafa fædt, frædt og uppalid þvílíkt barn, sem var hid líklegasta til ad verda sínu standi til sóma, þeim og ødrum til gagns og gledi, glad-ir af, ad hafa lagt alla kostgjæfni á þess full-

komnun í andlegum og líkamlegum efnum, og á þá náqvæmni og súkdóms meina-léttir, sem vidqvæmir og gódir Foreldrar fá heitt-elskudu afqvæmi mesta veitt. Þeir una vel þessari rádstøfun, þeirra vísdómsfulla og gjædskurika fødurs á himnum, fullvissir, ad hún er þeim og þeirra fyrir bestu; þeir sjá ad sønnu einu rúmi færra í sínu húsi, en vita í þess stad einu rúmi fleira skipad í því himneska húsi, þeirri eilífu dýrdar-vist, hvar útvaldra sálir gledjast, uns þær á upprisu degi allra manna, á ný sameinast sínum forklárudu líkømum, og þá innleidast í føgnud síns herra, til ad verda adnjótandi þeirrar sælu og dýrdar, sem ecki hefir auga sjed, ecki eyra heyrt, og ecki í nockurs manns hjarta nidurstígid. Þeir vita, ad sú er rádstafan Guds, ad þeir komi til þessa síns sæla barns, en þad ecki til þeirra aptur, og óska sér, med sømu vissu um hin sín børn, sem nú um þetta, ad lokunum segja kunna: Sjá! himneski Fadir! hér erum vér, og þau Børn, sem þú hefir ockur gefid!

Fylgjum þá allir þessu blessaða Guðs barni, sálugu Frøken Sigríði, til síns síðasta hvíldarstaðar í lífinu, með þeirri virðingu og aðgætni, sem hún á skilið, og með vorum upplýstum trúar-sjónum inn í farsæla eilífð, og sjáum hana þar meðtekið hafa þá sælu og dýrð, sem sjálfur Guð ætlað og búið hefir øllum þeim, um hverja svo í sannleika heita má, sem hana: **Hún var fljótt algjørð og fyllti mørg ár, og af því hennar sála þóknaðist Guði, þá flutti hann hana frá þessu lífi, til eilífs dýrðar-lífs og -ljóss á himnum.**

Hallgrímur Jónsson.



## II. Grafskrift:

Hér blundar dygdug
Høfdings Meyja:
Fröken **Sigridur Magnúsdóttir Stephensen**
fædd þann 28da Októbr. 1789.
dáin þann 19da Augústi 1805.

Hún var gáfum
Gjædd hid besta,
Sýnum føgur
Svinn ad mentum
Góð hvervetna
Gjætin, stødug,
Þolbetri flestum
Í þrautum sótta.
Gudi hlýdin

Og

Og góðu Foreldri,
Hvørs manns hugljúfi
Og Húſſins prýði.
Guð Hana tók
En gaf oſs eptir
Hennar dygða
Dæmi fegurſta.

---

Hjer geymiſt liðið lík,
Lifendra ſpegill ſkjær,
Að dáð og dygðum rík,
Drottni og mønnum kjær,
Sigriður Beſtum borin
Um Minning Hennar gott orð græer.

Þannig er líſſins leið!
Hún liggur bratt og ſljett;
Sólſkin og ſollin reið
Sveymar á hvørjum blett'
Ørlaga dýſir æða
Hvørt ſem þær ſpinna rángt eða rjett.

Þá mótlætis linur blær
Á lucku trjáblømum ſieſt,

Elleg-

Ellegar um þau slær
Akafa þeyrinn mest
Samt er Gud í þeim gusti,
Og lognid gjefur leida best.

Hann tekur sæla sál',
J sína verndar-hønd,
Þá lífs asmælt er mál
Med ser á dýrdar-lønd;
Elskendum eptirskilur
Løgin dygdanna fagur-þønd.

Þannig ad legi leid
Lík hinni føgru sól,
Vid lífsins, lokid skeid
Og lifendum sýnir sól,
Besta dygdanna dæmi
**Sigrídur**, Guds í skaut og skjól.

Þjer þreyum eptir -- en
Alsæla Þín er gjørd,
Vonum ad sjá Þig senn
Sæla hvar oss er kjørd.
Líkist Þjer allir úngir
Ad háum dygdum hjer á jørd!

B. Grøndal.



